stórtíðindum man gegna, ok hlaupa af skipum; en fyrir þessu liði réð Álfr, son Hjálpreks konungs af Danmǫrk; hann hafði farit fyrir land fram með her sínum; koma nú í valinn, þar sjá þeir mikit mannfall. Konungrinn biðr nú at leita at konunum ok svá gerðu þeir; hann spyrr, hverjar þær væri, en þar[9a]) skiptir eigi at líkindum til; ambáttin hafir svǫr[10]) fyrir þeim ok segir fall Sigmundar konungs ok Eylima konungs ok margs annars stórmennis ok svá, hverir gert hafa. Konungr spurði, hvárt þær vissi, hvar fé konungs væri fólgit; ambáttin svarar: meiri ván[11]), at vér vitim — ok vísar til fjárins; ok finna þeir auð mikinn, svá at eigi þóttuz menn sét hafa jafnmikit saman koma í einn stað eða fleiri gersimar; bera til skipa Álfs konungs. Hjǫrdís fylgði honum ok svá ambáttin. Hann ferr nú heim í ríki sitt, en lætr, at þar sé fallnir þeir konungar, er frægstir váru. Konungr sez við stjórn, en þær sátu í fyrirrúmi á skipinu; hann á tal við þær ok leggr virþing á rœður þeira. Konungr kom heim í ríki sitt við miklu fé; Álfr var manna gerviligastr. Ok er þau hafa skamma stund heima verit, spyrr dróttningin Álf son sinn: hví hefir in fegri kona færi hringa eða verra búnað? ok virðiz mér, at sú muni œðri, er þér hafið minna yfir látit[12]). Hann svarar: grunat hefir mik þat, at eigi sé ambáttarmót á henni, ok þá er vér fundumz, þá tókz henni vel at fagna tignum mǫnnum, ok hér til skal gera eina raun. Þat er nú eitt sinn við drykkju, at konungr sez á tal við þær ok mælti: hvat hafi-þér at marki um dœgrfar, þá er nótt eldir, ef þér sjáið eigi himintungl? Hón svarar: þat mark hǫfum vér hér til, at ek var því vǫn í œsku, at drekka mjǫk[13]) í óttu; ok er ek lét af því, vǫknuðu vér eptir því síðan, ok er þat mitt mark. Konungr brosti at ok mælti: illa var konungsdóttir vǫnd. Hann hittir þá Hjǫrdísi ok spyrr hana slíks ins sama; hón svarar honum: faðir minn gaf mér eitt gull lítit við nátturu þá, at[14]) kólnar í óttu á

9a) *So* C. *nach* M. O. — 10) *So* Fas., *B.*, sv' C. — 11) vön C. — *Die Worte* meiri (er) v. at v. vitim (gørla) *als Verspaar zu lesen?* — 12) *So* Fas. *u. B.*, lat C. — 13) *So* Fas. *u. B. ohne Bemerkung*, miod (= mjöð) *bietet Bj. in Text und anal. in der Übers., desgl. Rassmann* D. *Held.* I, 95 *übersetzt: Meth zu trinken.*— Rafn *übersetzt*: meget tidlig i morgenstunden, *ähnl. Edz.* — *Vgl. Gloss. u.* mjǫk. — 14) *Für* þá at *hat* C. þat. —



fingri mér, þat er mitt mark hér um. Konungr svarar: gnótt var þar gulls, er ambáttir báru, ok munu-þér œrit lengi leynz hafa fyrir mér, ok svá munda ek til þín gert hafa, sem vit værim eins konungs bǫrn bæði, þóttu hefðir þetta sagt[15]); ok enn skal gera verðleikum betr við þik, því at þú skalt vera mín kona, ok skal ek gjalda mund við þér, þá er þú hefir barn getit. — Hón svarar ok segir allt it sanna um sitt ráð; er hón þar nú í miklum sóma ok þykkir in virðuligasta kona.

XIII[1]). Þát er nú sagt, at Hjǫrdís fœðir sveinbarn, ok er sveinninn fœrðr Hjálpreki konungi. Konungrinn varð glaðr við, er hann sá þau in hvǫssu[2]) augu, er hann bar í hǫfði, ok sagði hann øngum mundu líkan verða eða samjafnan, ok var hann vatni ausinn með Sigurðar nafni; frá honum segja allir eitt, at um atferð ok vǫxt var engi hans maki. Hann var þar fœddr með Hjálpreki konungi af mikilli ást; ok þá er nefndir eru allir inir ágæztu menn ok konungar í fornum sǫgum, þá skal Sigurðr fyrir ganga um afl ok atgervi, kapp ok hreysti, er hann hefir haft um hvern mann fram annarra í norðrálfu heimsins. Sigurðr óx þar upp með Hjálpreki ok unni hvert barn honum; hann[3]) fastnaði Álfi konungi[3a]) Hjǫrdísi ok mælti henni mund. — Reginn hét fóstri Sigurðar ok var Hreiðmars son; hann kendi honum íþróttir, tafl ok rúnar ok tungur margar at mæla, sem þá var títt konungasonum, ok marga hluti aðra. Eitt sinn spurði Reginn Sigurð, er þeir váru báðir saman, ef hann vissi, hversu mikit fé faðir hans hefði átt, eða hverir þat varðveittu. Sigurðr svarar ok segir, at konungar varðveittu. Reginn mælti: trúir þú þeim allvel? Sigurdr svarar: þat samir, at þeir varðveita þar til er oss hallkvæmiz[4]), því at þeir kunnu betr at gæta en ek. Annat sinni[4a]) kemr Reginn at máli við Sigurð ok mælti: kynligt er þat, at þú vilt vera hestasveinn konunga eða fara sem hlauparar. Sigurðr svarar: Eigi er þat, því at vér ráðum ǫllu með þeim; er oss ok heimolt þat er vér viljum hafa. Reginn mælti: bið hann

15) eigi þ. s. *alle Paphss.* —

**XIII.** 1) *Überschr.* Fęddr Sig(urðr). — 2) haussu C. — 3) *d. i.* Hjálprekr. — 3a) konungr C. *nach* M. O. — 4) *So* C. *u.* Fas., haldkv. *B.* — 4a) *So* C. *nach* M. O. —

gefa þér einn hest! Sigurðr svarar: þegar mun þat, er ek vil. Sigurðr hittir nú konunga; þá mælti konungr við Sigurð: hvat viltu af oss þiggja? Sigurðr svarar: einn hest viljum vér þiggja oss til skemtanar. Konungrinn mælti: kjós þér sjálfr hest ok slíkt, er þú vill hafa af várri eigu. Annan dag eptir fór Sigurðr til skógar ok mœtir einum gǫmlum manni með síðu skeggi, sá var honum ókunnigr; hann spyrr, hvert Sigurðr skyldi fara. Hann svarar: hest skyldum vér kjósa, ráð um með oss! Hann mælti: Fǫrum ok rekum til árinnar, er Busiltjǫrn[5]) heitir. Þeir reka hrossin út á djúp árinnar, ok[6]) leggjaz at landi, nema einn hestr, hann tók Sigurðr: hann var grár at lit ok ungr at aldri, mikill vexti ok vænn; engi hafði honum á bak komit. Skeggmaðrinn mælti: þessi hestr er kominn frá Sleipni, ok skal hann vandliga upp fœða, því at hann verðr hverjum hesti betri — maðrinn hverfr þá. Sigurðr kallar hestinn Grana, ok hefir sá hestr beztr verit, Óðinn hafði hann hittan. Enn mælti Reginn til Sigurðar: oflítit fé eigu-þér; þat harmar oss, at þér hlaupið sem þorpara sveinar, en ek veit mikla féván at segja þér, ok er þat meiri ván, at þat sé sómi at sœkja ok virðing, ef þú næðir. Sigurðr spyrr, hvar væri eða hverr varðveitti. Reginn svarar: sá heitir Fáfnir, er hér[7]) liggr skamt heðan á brott, þat heitir Gnítaheiðr; ok er þú kemr þar, þá muntu þat mæla: aldri sáttu meira fé í gulli í einum stað, ok eigi þarftu meira, þóttu verðir allra konunga elztr ok frægstr. Sigurðr svarar: kann ek kyn þessa orms, þótt vér sém ungir, ok hefi ek spurt, at engi þorir at koma á mót honum fyrir vaxtar sakir ok ilsku. Reginn svarar: þat er ekki; sá vǫxtr er eptir hætti lyngorma, ok er gert af miklu meira en er, ok svá mundi þótt hafa inum fyrrum frændum þínum; ok þótt Vǫlsunga ætt sé at þér, þá mun þú eigi hafa þeira skaplyndi, er fyrst eru talðir til alls frama. Sigurðr svarar: vera má, at eigi hǫfum vér mikit af þeira kappi eða snild; en eigi berr nauðsyn[8]) til

5) *So B*, *vgl. Ba.*; Búsilt. Fas. — 6) en þau l. (*oder* ei legst) *Paphss.*, *Rassm.: aber keins schwamm ans Land. Vgl. jedoch Wb. u.* leggjaz. — 7) *B'. frägt: ist* hér *richtig?* — *Für* þat *im fg. vermutet Sm.* þar er. — *Z.* 24 *wäre* sá ek *zu erwarten.* — 8) nausun C. —



at frýja oss, er vér erum[9]) enn lítt af barnsaldri; eða hví eggjar þú þessa svá mjǫk? Reginn svarar: saga er til þess, ok mun ek segja þér. Sigurðr mælti: lát mik heyra!

XIV[1]). Þat er upphaf[2]) sǫgu þessar, at Hreiðmarr hét faðir minn, mikill ok auðigr; son hans hét Fáfnir, en annarr hét Otr[3]), ok var ek inn þriði, ok var ek minstr fyrir mér um atgervi ok yfirlát; kunna ek af járni gera ok af silfri ok gulli ok hverjum hlut[4]) gerða[5]) ek nǫkkut[6]) nýtt. Otr bróðir minn hafði aðra iðn ok náttúru, hann var veiðimaðr mikill ok umfram aðra menn ok var í otrs líki um daga ok var jafnan í ánni ok bar upp fiska með munni sér; veiðifǫngin fœrði hann feðr sínum, ok var honum þat mikill styrkr; mjǫk hefir hann otrs líki á sér, kom síð[7]) heim ok át blundandi ok einn saman, því at hann mátti eigi sjá at þyrri. Fáfnir var miklu mestr ok grimmastr ok vildi sitt eitt kalla láta allt þat er var. Einn dvergr[8]) heitir Andvari — segir Reginn — hann var jafnan í forsinum, er Andvarafors heitir, í geddu líki ok fekk sér þar matar, því at þar var fjǫlði fiska í þeim forsi. Otr bróðir minn fór jafnan í þenna fors ok bar upp fiska í munni sér ok lagði einn senn á land. — Óðinn, Loki, Hœnir fóru leiðar sinnar ok kómu til Andvarafors; Otr hafði þá tekit einn lax ok át blundandi á árbakkanum; Loki tók einn stein ok laust otrinn til bana. Æsir þóttuz mjǫk hepnir af veiði sinni ok flógu belg af otrinum. Þat kveld kómu[9]) þeir til Hreiðmars ok sýndu honum veiðina; þá tóku-vér þá hǫndum ok lǫgðum[10]) á þá gjald ok fjǫrlausn, at þeir fyldi belginn af gulli ok hyldi[11]) hann útan með rauðu gulli. Þá sendu þeir Loka at afla gullsins; hann kom tik Ránar ok fekk net hennar, fór þá til Andvarafors ok kastaði netinu fyrir gedduna, en hón hljóp í netit; þá mælti Loki:

9) *So B.*, erum *fehlt* C., Fas. *ändern* enn *in* erum, *vgl. auch* M. O. —
**XIV.** *Nach Bt wäre hier überhaupt keine Überschrift* (*also auch kein neuer Abschnitt?*) *vorhanden gewesen.* — 2) *nur* upp C. — 3) C. *hier* otthr, *weiterhin* óttr *u. stets mit* tt (*B'.*). — 4) *B'. vermutet wohl mit Recht* gulli, ok af hv. hl. — 5) gerdi C. — 6) naukvat C., nökkvat *B.* — 7) *So* C. *u. B.*, siðan Fas. — 8) deyrgr C. — 9) kuómu C. — 10) *So* Fas., *B.* (*vgl. Prosa zu* Regm.) — sögdum C. — 11) huldi C. —

(Regm. 1) Hvat's þat fiska,
es rennr[12]) flóði í,
kannat[13]) við víti varask?
hǫfuð þitt
leystu helju ór,
finn[14]) mér lindar[15]) loga!

(Regm. 2) Andvari heitik,
Óinn[16]) hét minn faðir,
margan hefik[17]) fors of[18]) farit;
aumlig norn
skóp oss[19]) í árdaga,
at skyldak[20]) í vatni vaða.

Loki sér gull þat er Andvari átti; en er hann hafði fram reitt gullit, þá hafði hann eptir[21]) einn hring, ok tók Loki hann[22]) af honum. Dvergrinn gekk í steininn ok mælti, at hverjum skyldi at bana verða, er þann gullhring ætti, ok svá allt gullit. Æsirnir reiddu Hreiðmari féit ok tráðu upp otrbelginn ok settu á fœtr; þá skyldu æsirnir hlaða upp hjá gullinu ok hylja útan, en er þat var gert, þá gekk Hreiðmarr fram ok sá eitt granahár ok bað hylja. Þá dró Óðinn hringinn af hendi sér Andvaranaut ok hulði hárit. Þá kvað Loki:

(Regm. 6) Gull's þér nú reitt[23]),
en þú gjǫld hefir
mikil míns hǫfuðs;
syni þínum
verðrat[24]) sæla skǫpuð,
þat's ykkarr[25]) beggja bani!

Síðan drap Fáfnir fǫður sinn — segir Reginn — ok myrði

12) *Zur Versbehandl. vgl. c.* XX [11]). — rennur C. — renn R — rinnr *H. G.* — 13) k. sér *die Hss., vgl. H. G.* — 14) *So L. E.*, ok f. C. — 15) *So B.*, lionar C., linar R; línar, linnar (*u.* liðar?), lindar *Hrgb. der L. E.* (lónar *Bt. zu* Norr. Fornkv.) *vgl. H. G.* — 16) *So* R, Óþinn C. — 17) *So B.*, hefk *H. G.*, hefi ek C *u.* R. — 18) um *L. E.* — 19) skópumk? *B'. So schreibt Gg., H. G.* — 20) *So Gg., H. G.* — 21) eptir *fehlt* C., *wurde aber nach Prosa vor* Regm. 5 *ergänzt.* — 22) þann *Prosa vor* Regm. 5 (*B'.*). — 23) *So* C. *u. Ausg.*, r. *fehlt L. E., vgl. H. G.* — 24) *So* C., verðra *L. E.* — 25) *So* (*doch* ykkar) C., -arr *L. E.* — þat verðr y. b. b. *L. E.* —



hann, ok náða ek ǫngu af fénu. Hann gerðiz svá illr, at hann lagðiz út ok unni ǫngum at njóta fjárins nema sér ok varð síðan at inum versta ormi ok liggr nú á því fé. Síðan fór ek til konungs ok gerðumz ek smiðr hans, ok er þessi rœða til minnar sǫgu, at ek missa[26]) fǫðurarfsins ok bróðurgjaldanna. [Gullit er síðan kallat otrsgjǫld ok hér dœmi af tekin[27]).] Sigurðr svarar: mikit hefir þu látit, ok stórillir hafa þínir frændr verit. Ger[28]) nú eitt sverð af þínum hagleik, þat er ekki sé jafngott gert, ok ek mega vinna[29]) stórverk, ef hugr dugir, ef þú vilt, at ek drepa[30]) þenna inn mikla dreka. Reginn segir: þat geri ek með trausti, ok muntu mega drepa Fáfni með því sverði.

XV[1]). Reginn gerir nú eitt sverð ok fær í hond Sigurði. Hann tók við sverðinu ok mælti: þetta er þitt[2]) smíði, Reginn! ok høggr í steðjann, ok brotnaði sverðit; hann kastar brandinum[3]) ok bað hann smíða annat betra. Reginn gerir[4]) annat sverð ok fær Sigurði, hann leit á; — þetta mun þér líka, en vant mun yðr at smiða. Sigurðr reynir þetta sverð[4a]), ok brýtr sem it fyrra. Þá mælti Sigurðr til Regins: þú munt líkr vera inum fyrrum frændum þínum ok vera ótrúr; gekk nú til móður sinnar, hón fagnar honum vel, talaz nú við ok drekka. Þá mælti Sigurðr: hvart hǫfum vér rétt til spurt, at Sigmundr konungr seldi yðr sverðit Gram í tveim hlutum? Hón svarar: satt er þat. Sigurðr mælti: fá mér í hǫnd, ek vil hafa! — Hón kvað hann líkligann til frama ok fær honum sverðit. Sigurðr hittir nú Regin ok bað hann þar gera af sverð eptir efnum. Reginn reiddiz ok gekk til smiðju með sverðsbrotin; ok þykkir Sigurðr framgjarn[5]) um smíðina. Reginn gerir nú eitt sverð, ok er hann bar

26) *So verbessert nach Bt.*, missi C. — 27) *Die Worte* Gullit *u. w. wären nach Ba. Interpolation, vgl. auch* 116, 9. — 28) Gjor C. *mit rotem* G *und mit der Cap. Überschr.* Reginn gerdi Gram, *vgl. C.* XV [1]). — 29) mega með vinna *vermutet B'.* — 30) *So* C. *nach Bt.* —

**XV.** 1) *Eine Überschr. findet sich nicht hier, sondern schon vorher, vgl.* XIV [28]). — 2) *So* C, *die Änderung B's.* ilt (*für* þitt) *ist wohl kaum nötig; es scheint vielmehr ein ironischer Ausdruck anzunehmen, wie: das ist nun dein Meisterstück!* — *An* þunt sm. *dachte* M. O. — 3) brotunum *vermutet Bt. wohl ohne Not.* — 4) gerit C. — 4[a]) sverdit C. — 5) *So die Ausg.* — C. *scheint* fram grajarn *zu bieten; vgl.* M. O.

ór aflinum, sýndiz smiðjusveinum, sem eldar brynni ór eggjunum[5a]); biðr nú Sigurð við taka sverðinu ok kvez eigi kunna sverð at gera, ef þetta bilar. Sigurðr hjó í steðjann ok klauf niðr í fótinn, ok brast eigi né brotnaði; hann lofaði sverðit mjǫk ok fór til árinnar með ullarlagð[6]) ok kastar í gegn straumi, ok tók í sundr, er hann brá við sverðinu; gekk Sigurðr þá glaðr heim. Reginn mælti: efna muni-þér heit yður nú, er ek hefi gert sverðit, ok hitta Fáfni. Sigurðr svarar: efna munum vér, ok þó annat fyrr, at hefna fǫður míns. Sigurðr var því ástsælli, sem hann var ellri, af ǫllu fólki, svá at hvert barn unni honum hugástum.

XVI[1]). Grípir[2]) hét maðr ok var móðurbróðir Sigurðar; en litlu síðar, en sverðit vart gert, fór hann á fund Grípis, því at hann var framvíss ok vissi fyrir orlǫg[3]) manna. Sigurðr leitar eptir, hversu ganga man ævi hans; en hann var þó lengi fyrir[4]) ok sagði þó loksins við ákafliga bœn Sigurðar ǫll forlǫg hans, eptir því sem eptir gekk síðan. Ok þá er Grípir hafði þessa hluti sagða, sem hann beiddi, þá reið hann heim. Ok brátt eptir þat finnaz þeir Reginn; þá mælti hann: drep Fáfni, sem þér hétuð! Sigurðr svarar: gera skal þat, ok þó annat fyrr, at hefna Sigmundar konungs ok annarra frænda várra, er þar fellu í þeiri orrostu.

XVII[1]). Nú hittir Sigurðr konunga ok mælti til þeira: hér hǫfum vér verit um hríð, ok eigum vér yðr ástsemd at launa ok mikla virðing; en nú viljum vér ór landi fara ok finna Hundingssonu, ok vilda[2]) ek, at þeir vissi, at Vǫlsungar væri eigi allir dauðir; viljum vér hafa þar til yðarn styrk. Konungar kváðuz allt vilja til fá, þat er hann beiddiz. Er nú búit lið mikit ok allt vandat sem mest, skip ok allr herbúnaðr, svá at hans ferð væri þá vegligri en áðr. Sigurðr stýrir dreka þeim er mestr var ok ágætligastr; segl þeira

5[a]) egginum C. — *Im fg.* Sigurder C. — 6) aullar l. C. —

**XVI.** 1) *Die Überschr. ist undeutlich geworden.* — 2) Grífir *hier* C., *sonst auch* Gríp. — Gripir *B., vgl. H. G. zu* Gríp. (*pros. Eingang*). — 3) aurlaugh C. — 4) tregr fyrir *schreibt Bj.* (*nach Ba.*) —

**XVII.** 1) *Überschr.:* Sigurdr drap Lyngha ok Hjorvard ok þá alla . . . — 2) *So B.,* vildi C. —



váru mjǫk vǫnduð ok ítarlig at sjá. Sigla þeir nú góðan byr, ok er fá dœgr váru liðin, þá kom á veðr mikit með stormi, en svá var sjárinn, sem í roðru sæi. Eigi bað Sigurðr svipta seglunum, þótt rifnuðu[3]), heldr bað hann hæra setja en áðr.

Ok er þeir sigldu fram fyrir bergnǫs nǫkkura, þá kallaði maðr upp á skipit ok spyrr, hverr fyrir liðinu eigi at ráða. Honum var sagt, at þar var hǫfðingi Sigurðr Sigmundarson, er nú er frægstr ungra manna. Maðrinn svarar: allir segja þar eitt frá honum, at eigi[4]) megi konungasynir jafnaz við hann; vilda[5]) ek, at þér feldið seglin á nǫkkuru skipinu, ok tœki-þér við mér. Þeir spurðu hann at nafni. Hann svarar:

(Regm. 18) Hnikar hétu mik,
þá's Hugin gladdi[6]),
Vǫlsungr ungi,
ok vegit[7]) hafði[8]);
nú mátt kalla
karl af bjargi[9])
Feng eða Fjǫlni,
far vilk þiggja.

Þeir viku at landi ok tóku karl á skip sín; þá tók af veðrit, ok fara, unz þeir koma at landi í ríki Hundingssona; þá hvarf Fjǫlnir. Þeir láta þegar geisa[10]) eld ok járn, drepa menn, en brenna bygðina, ok eyða þar sem þeir fara; støkkr fjǫlði undan á fund Lyngva[11]) konungs ok segja, at herr er kominn í landit ok ferr með meira geysingi, en dœmi finniz til; kváðu Hundingssonu eigi langsýna, þá er þeir sǫgðuz eigi mundu hræðaz Vǫlsunga — en nú stýrir þessum her Sigurðr Sigmundarson. Lyngvi konungr lætr nú fœra um

3) *B'. bemerkt: man erwartet* rifnaði. — *Vgl. Wb.* — 4) *B'. fragt: vielleicht* engir? — 5) vildi *C.* — 6) *So* C., (*doch* huginn) gladda *B.* — gladdi *korr. aus* gladdak R *der L. E.* — *Vgl. H. G. u. Gloss. s.* Vǫls. Völsungr *ist* Sigkv. in sk. 1, 3 *u.* 13 Sigurðr. — 7) *So* R *u.* Ngþ. *C.* V, *Ausg.* — veghat C. — 8) hafði C *u. alle Hss.*, hafða *B.* — *Für* mátt (*Sm., H. G.*) mattu *die Hss.* — 9) *Nach* bjargi (bergi) *interpung. einige Ausg.* — 10) *So und hernach* geysingi C. — 11) Lynga C. *hier u. öfter, vgl. aber* XII [1]). — 12) *So* C. *u.* M. O., *vor* S. *ergänzen* er Fas. *u. B.* —

allt sitt ríki herboð, vill eigi á flótta leggjaz; stefnir til sín ǫllum þeim mǫnnum, er honum vilja lið veita, kemr nú á mót Sigurði með allmikinn her, ok brœðr hans með honum, tekz þar in harðasta orrosta með þeim; mátti þar á lopti sjá mart spjót ok ǫrvar margar, øxi hart reidda, skjǫldu klofna ok brynjur slitnar, hjálma skífða, hausa klofna ok margan mann steypaz til jarðar. Ok er orrostan hefir svá staðit mjǫk langa hríð, sœkir Sigurðr fram um merkin ok hefir í hendi sverðit Gram; hann høggr bæði menn ok hesta ok gengr í gegnum fylkingar ok hefir báðar hendr blóðgar til axlar, ok stǫkk undan fólk, þar sem hann fór, ok helz hvárki við hjálmr né brynja, ok engi maðr þóttiz fyrr sét hafa þvílíkan mann. Þessi orrosta stóð lengi með miklu mannfalli ok ákafri sókn; ferr þar, sem sjaldnar kann henda, þá er landherrinn sœkir til, at þat kom fyrir ekki; fell þar svá mart fyrir Hundingssonum, at engi maðr vissi tǫl á. Ok Sigurðr[12]) var framarla í fylkingu; þá koma[13]) á mót honum synir Hundings konungs. Sigurðr høggr til Lyngva konungs ok klýfr hjálm hans ok hǫfuð ok brynjaðan búk, ok síðan høggr hann Hjǫrvarð, bróður hans, sundr í tvá hluti, ok þá drap hann alla Hundingssonu, er eptir lifðu, ok mestan hluta liðs þeira. Ferr Sigurðr nú heim með fǫgrum sigri ok miklu fé ok ágæti, er hann hafði fengit í þessi ferð; váru nú veizlur gervar í mót honum heima í ríkinu. Ok er Sigurðr hefir skamma stund heima verit, kemr Reginn at máli við Sigurð[14]) ok segir: nú munu-þér vilja steypa hjálminum Fáfnis, svá sem þér hétuð, því at nú hefir þú hefnt fǫður þíns ok annarra frænda þinna[14a]). Sigurðr svarar: efna munu-vér þat, sem vér hǫfum þar um heitit, ok ekki fellr oss þat ór minni.

XVIII[1]). Nú ríða þeir Sigurðr ok Reginn upp á heiðina á þann farveg, er Fáfnir var vanr at skríða, er hann fór til vatns, ok þat er sagt, at sá hamarr var þrítugr, er hann lá at vatni, þá er hann drakk. Þá mælti Sigurðr: þat sagðir þú, Reginn, at dreki sjá væri eigi meiri en einn lyngormr, en mér sýnaz vegar hans æfar miklir. Reginn mælti: ger grǫf eina ok sez þar í, ok þá er ormrinn skríðr til vatns,

13) kama C. *Vgl.* M. O. — 14) Sigurdr C. — 14a) sinna C, *vgl.* B'.
**XVIII.** 1) *Überschr.* Nu rída þeir Reginn ok Sigurdr. —



legg þá til hjarta honum ok vinn honum svá bana; þar fyrir fær[2]) þú mikinn frama. Sigurðr mælti: hversu man þá veita, ef ek verð fyrir sveita ormsins? Reginn svarar: eigi má þér ráð ráða, er þú ert við hvatvetna[3]) hræddr, ok ertu ólíkr þínum frændum at hughreysti. Nú ríðr Sigurðr á heiðina, en Reginn hverfr í brott yfrit hræddr. Sigurðr gerði grǫf eina, ok er hann er at þessu verki, kemr at honum einn gamall maðr með síðu skeggi ok spyrr, hvat hann gerir þar, hann segir; þá svarar inn gamli maðr: þetta er óráð, ger fleiri grafar ok lát þar í renna sveitann, en þú sit í einni ok legg til hjartans orminum! — Þá hvarf sá maðr á brottu, en Sigurðr gerir grafar eptir því, sem fyrir var sagt. Ok er ormrinn skreið til vatns, varð svá mikill landskjálfti[4]), svá at ǫll jǫrð skalf í nánd, hann fnýsti eitri alla leið fyrir sik fram, ok eigi hræddiz Sigurðr né óttaz við þann gný. Ok er ormrinn skreið yfir grǫfina, þá leggr Sigurðr sverðinu undir bœxlit vinstra, svá at við hjǫltum nam. Þá hleypr Sigurðr upp ór grǫfinni[5]) ok kippir at sér sverðinu ok hefir allar hendr blóðgar upp til axlar[6]). Ok er inn mikli ormr kendi síns banasárs, þá laust hann hǫfðinu ok sporðinum, svá at allt brast í sundr, er fyrir varð. Ok er Fáfnir fekk banasár[7]), spurði hann: hverr ertu, eða hverr er þinn faðir, eða hver er ætt þín, er þú vart svá djarfr, at þú þorir[8]) at bera vápn á mik? Sigurðr svarar: ætt mín er mǫnnum ókunnig, ek heiti gǫfugt dýr, ok á ek engan fǫður né móður[9]), ok einn saman hefi ek farit. Fáfnir svarar: ef þú átt engan feðr né móður[10]), af hverju undri ertu þá alinn? ok þótt þú segir mér eigi þitt nafn á banadœgri mínu, þá veiztu, at þú lýgr nú. Hann svarar: ek heiti Sigurðr, en faðir minn Sigmundr. Fáfnir svarar: hverr eggjaði þik þessa verks, eða hví léttu at eggjaz? hafðir þú eigi frétt þat, hversu allt fólk er hrætt við mik ok við minn ægishjálm? inn[11]) fráneygi sveinn, þú áttir feðr snarpan! — Sigurðr svarar: til

2) *So* Fas. B., ferr *oder* færr C. — 3) *So Ba.*, hvartvetna C. — 4) landskjafte C. — 5) grafinne C. — 6) *Rassmann* (*Heldensage* I, 123) *u. B'. halten die Stellung dieses Satzes* (þá hleypr *u. w.*) *für unpassend, und verweisen ihn hinter den nächsten.* — 7) *„Man sollte erwarten:* sér banamann sinn" *B'.*, *vgl.* 6). — 8) *So* C *u.* Fas. — þorðir *B.* — 9) *So* Fas., *B.* — eingum C. — 10) mǫdr C. — 11) en C, enn *B.* —

þessa hvatti mik inn harði hugr ok stoðaði til, at gert yrði, þessi in sterka hǫnd ok þetta it snarpa sverð, er nú kendir þú, ok fár er gamall harðr, ef hann er í bernsku blautr. Fáfnir segir: veit ek, ef þú vex[12]) upp með frændum þínum, at þú mundir kunna at vega reiðr; en þetta er meiri furða, er einn bandingi hertekinn skal þorat hafa at vega at mér, því at fár hernuminn er[13]) frœkn til vígs. Sigurðr mælti: bregðr þú mér, at ek væra fjarri mínum frændum[14])? en þótt ek væra hernuminn, þá var ek þó eigi heptr, ok þat fanntu, at ek var lauss. Fáfnir svarar: heiptyrði tekr þú hvetvetna þat[15]) er ek mæli; en gull þetta mun þér at bana verða, er ek hefi átt. Sigurðr svarar: Hverr vill fé hafa allt til ins[16]) eina dags[17]), en eitt sinn skal hverr deyja. Fáfnir mælti: fátt vill þú at mínum dœmum gera, en drukna muntu, ef þú ferr um sjá óvarliga, ok bíð heldr á landi, unz logn er. Sigurðr mælti: seg þú þat, Fáfnir, ef þú ert fróðr mjǫk: hverjar eru þær nornir, er kjósa mǫgu frá mœðrum[18])? Fáfnir svarar: margar eru þær *ok*[19]) sundrlausar, sumar eru ása-ættar, sumar eru álfa-ættar, sumar eru dœtr Dvalins. Sigurðr mælti: hvé heitir sá hólmr, er blanda hjǫrlegi Surtr[20]) ok æsir saman? Fáfnir svarar: hann heitir Óskaptr[21]). Ok enn mælti Fáfnir: Reginn bróðir minn veldr mínum dauða, ok þat hlœgir mik, er hann veldr ok þínum dauða, ok ferr þá, sem hann vildi. Enn mælti Fáfnir: ek bar ægishjálm yfir ǫllu fólki, síðan ek lá á arfi míns bróður, ok svá fnýsta ek eitri alla vega frá mér í brott, at engi þorði at koma í nánd[22]) mér, ok engi vápn hræddumz ek, ok aldri fann ek svá margan mann fyrir mér, at ek þœttumz eigi miklu sterkari; en allir váru hræddir við mik. Sigurðr mælti: sá ægishjálmr, er þú sagðir frá, gefr fám sigr, því at hverr sá er með mǫrgum kemr, má þat finna eitt hvert sinn, at engi er einna hvatastr. Fáfnir

12) *So* Fas. *B. nach C.* — *B'.: vielleicht* vexir = yxir. — 13) er *ist ergänzt.* — 14) *Wohl als Fragesatz zu fassen, so in* Fas. — 15) *So* (*oder* hvervetna í því) *vorgeschlagen von B'.*, hvetvetna því C. *u.* Fas. — 16) *So* (ens) *B.*, enn C. — 17) endadags *hier u.* 181, 11 *Paphss.* — 18) *So B.*, maugr frá medrum C., *vgl.* Fáfn. 12, 6. — 19) ok *ist ergänzt.* — 20) Surt C. 21) *So* (*oder* Úskaptr) C., Úsk. *B.*, *auf* Óskópnir (Fáfn. 15) *als richtigere Form verweist B'.* — 22) inad C. —



svarar: þat ræð ek þér, at þú takir hest þinn ok ríðir á brott sem skjótast[23]), því at þat hendir opt, at sá er banasár fær, hefnir sín sjálfr. Sigurðr segir: þetta eru þín ráð, en annat mun ek gera; ek mun ríða til þíns bóls ok taka þar þat it[24]) mikla gull, er frændr þínir hafa átt. Fáfnir svarar: ríða muntu þar til, er þú finnr svá mikit gull, at œrit[25]) er um þína daga, ok þat sama gull verðr þinn bani ok hvers annars, er þat á. Sigurðr stóð upp ok mælti: heim munda ek ríða, þótt ek mista þessa ins mikla fjár, ef ek vissa, at ek skylda aldri deyja; en hverr frœkn maðr vill fé ráða allt til ins eina dags — en þú, Fáfnir, ligg í fjǫrbrotum, þar er þik Hel hafi! — ok þá deyr Fáfnir.

XIX[1]). Eptir þetta kom Reginn til Sigurðar ok mælti: heill, herra minn! mikinn sigr hefir þú unnit, er þú hefir drepit Fáfni, er engi varð fyrr svá djarfr, at á hans gǫtu þorði sitja, ok þetta fremðarverk mun uppi, meðan verǫldin stendr. Nú stendr Reginn ok sér niðr í jǫrðina langa hríð, ok þegar eptir þetta mælti hann af miklum móði: bróður minn hefir þú drepit, ok varla má ek þessa verks saklauss vera! — Nú tekr Sigurðr sitt sverð Gram ok þerrir á grasinu ok mælti til Regins: fjarri[2]) gekk þú þá, er ek vann þetta verk, ok ek reynda þetta snarpa sverð með minni hendi, ok mínu afli atta ek[3]) við orms megin, meðan þú látt í einum lyngrunni, ok vissir þú *eigi*[4]), hvárt it[5]) var himinn eða jǫrð. Reginn svarar: þessi ormr mætti lengi liggja í sínu bóli, ef eigi hefðir þú notit sverðs þess er ek gerða þér minni hendi, ok eigi hefðir *þú*[6]) þetta einn[7]) unnit ok engi annarra. Sigurðr svarar: þá er menn koma til vígs, þá er manni betra gott hjarta, en hvast[8]) sverð. Þá mælti Reginn við Sigurð af áhyggju mikilli: þú drapt minn bróður,

23) skjóast C. — 24) ed C. — 25) *So wohl zu lesen, vgl.* M. O. — gert *lasen* Fas., *B.* —

**XIX.** 1) *Überschr.* Reginn drack blód Fáfnis. — 2) C. ferri, *was nach B'. (der jedoch* ferri *in den Text setzt)* = fjarri, *vgl. auch* Fáfn. 28. — 3) *So* (*von* etja) *B. unter Hinweis auf* Fáfn. 28 — átta ek Fas. — 4) eigi *ergänzen* Fas. *u. B.* — 5) C ed, *was in* Fas. *ausgelassen, von B.* = er *gefaßt ist, doch vgl. oben* XVIII, [24]) ed = eð = it *u.* eð = it XXX, [18]) *u.* [27]). — 6) *So ergänzen* Fas. *u. B.* — 7) *So* Fas. *u. Edz.; vgl.* [18]). — enn C. *u. B.* — 8) haust C.

ok varla má ek þessa verks saklauss! Þá skar *Reginn*[9]) hjartat ór orminum með því sverði, er Riðill hét; þá drakk Reginn blóð Fáfnis ok mælti: veit mér eina bœn, er þér er lítit fyrir: gakk til elds með hjartat ok steik, ok gef mér at eta! — Sigurðr fór ok steikti á teini, ok er freyddi ór, þá tók hann fingri sínum á ok skynjaði, hvárt steikt væri; hann *brann ok* brá[10]) fingrinum í munn sér, ok er hjartablóð ormsins kom á tungu honum, þá skildi hann fuglarǫdd; hann heyrði, at igður klǫkuðu á hrísinu hjá honum[11]): þar sitr[12]) Sigurðr ok steikir Fáfnis hjarta, þat skyldi hann sjálfr eta, þá mundi hann verða hverjum manni vitrari. — Ǫnnur segir: þar liggr Reginn ok vill véla þann sem honum trúir. — Þá mælti in þriðja[13]): hǫggvi hann þá hǫfuð af honum, ok má hann þá ráða gullinu því inu mikla einn! — Þá mælti in fjórða: þá væri hann vitrari, ef hann hefði þat, sem þær hǫfðu[14]) ráðit honum, ok riði síðan til bóls Fáfnis[15]) ok tœki þat il mikla gull, er þar er, ok riði síðan upp á Hindarfjall, þar sem Brynhildr sefr, ok mun hann nema þar mikla speki, ok þá væri hann vitr, ef hann hefði yður ráð ok hygði hann um sína þurft[15a]), ok þar er mér úlfsins ván, er ek eyrun sá. — Þá mælti in fimta: eigi er hann svá horskr[16]), sem ek ætlað*a*[17]), ef hann vægir honum, en drepit áðr bróður hans. Þá mælti in sétta: þat væri snjallræði, ef hann dræpi hann ok réði einn[18]) fénu. — Þá mælti Sigurðr: eigi munu þau óskǫp, at Reginn sé minn bani, ok heldr skulu þeir fara báðir brœðr einn veg! — bregðr nú sverðinu Gram ok høggr hǫfuð af Regin; ok eptir þetta etr hann suman hlut hjartans ormsins, en sumt hirðir hann;

9) sk. Sigurdr. C. *u. Ausg.* — sk. Reginn? *B'*. — *Diese Änderung ist freilich durch die Nennung des nicht* Sigurð *gehörigen Schwertes u. durch* Fáfn. *Prosa vor Str.* 31 *geboten.* — 10) *So nach Prosa vor* Fáfn. *Str.* 32 *ergänzt von B.*; hann brá f. C. — 11) *Das fg.* þ *sehr groß, auch findet sich hier in* C. *die Überschr.* Sigurðr át hjartað or. . . . (ormsins? *B'*.). *Hier hätte also ein neues Cap. zu beginnen.* — 12) s. þú Sig. C. — þú *von B. aus Rücksicht auf das fg.* hann *getilgt.* — 13) enn þriðe C. — 14) þér höfðuð *vermutet B'*. — *Im Vorherg. ist* hefði *u. w. mit Z.* 19 *zu vgl.* — 15) Fámnes C. — 15a) *So* M. O., þyrft C., *B.* — 16) hoskr C. — 17) *So B.*, etla C. — *Im fg. wäre* drepit hefir *deutlicher, vgl.* Fáfn. 36, 7. — 18) *So* Fas. *u. B.*, enn C. —



hleypr síðan á hest sinn ok reið eptir slóð Fáfnis ok til hans herbergis ok fann, at þat var opit, ok af járni hurðirnar allar ok þar með allr dyra-umbúningrinn, ok af járni allir stokkar í húsinu, ok grafit í jǫrð niðr. Sigurðr fann þar stórmikit gull ok sverðit Hrotta, ok þar tók hann ægishjálm ok gullbrynjuna ok marga dýrgripi. Hann fann þar svá mikit gull, at honum þótti ván, at eigi mundi meira bera tveir hestar eða þrír; þat gull tekr hann allt ok berr í tvær kistur miklar[19]), tekr nú í tauma hestinum Grana; hestrinn vill nú eigi ganga, ok ekki tjár at keyra. Sigurðr finnr nú, hvat hestrinn vill, hleypr hann á bak ok lýstr hann sporum, ok rennr sjá hestr, sem lauss væri.

XX[1]). Sigurðr ríðr nú langar leiðir, ok allt til þess, er hann kemr upp á Hindarfjall, ok stefndi á leið suðr til Frakklands; á fjallinu sá hann fyrir sér ljós mikit, sem eldr brynni, ok ljómaði af til himins; en er *hann*[2]) kom at, stóð þar fyrir honum skjaldborg ok upp ór merki. Sigurðr gekk í skjaldborgina ok sá, at þar lá maðr ok svaf[2a]) með ǫllum hervápnum; hann tók fyrst hjálminn af hǫfði honum ok sá, at þat var kona; hón var í brynju, ok var svá fǫst, sem hón væri holdgróin; þá reist hann ofan ór hǫfuðsmátt ok í gegnum[3]) niðr, ok svá út í gǫgnum[4]) báðar ermar, ok beit sem klæði. Sigurðr kvað hana helzti[4a]) lengi sofit hafa. Hón spurði, hvat svá var máttugt, er beit brynjuna — ok brá mínum svefni, eða man hér kominn Sigurðr Sigmundarson, er hefir hjálm Fáfnis ok hans bana í hendi? Þá svarar Sigurðr: sá er Vǫlsunga ættar, er þetta verk hefir gert, ok þat hefi ek spurt, at þú ert ríks konungs dóttir, ok þat sama[5]) hefir oss sagt verit frá yðrum vænleik ok vitru, ok þat skulu-vér reyna. Brynhildr segir, at tveir[6]) konungar bǫrðuz, hét annarr Hjálmgunnarr; hann var gamall ok inn mesti hermaðr, ok hefði Óðinn honum sigri heitit; en annarr

19) *B'. bemerkt: nach* miklar *sollte folgen* ok klyfjar þar með Grana *oder etwas Ähnl.* —

**XX.** 1) *Überschrift:* Frá Sigurde. — 2) hann *wurde von B. ergänzt nach der prosaischen Einl. zu* Sigrdrifm. *die diesem C. der* Völs. *sehr nahe steht.* — 2a) C. sv. m. ok lá; *die Umstell. empfahl Bt.* — 3) *Hier* C. gegnum. — 4) *Hier* C. gaugnum. — 4a) hellti C. — 5) *Für* þat sama *vermutet B'*. svá it sama. — 6) tuerr C. —

Agnarr Auðu bróðir[7]); ek felda Hjálmgunnar í orrostu, en Óðinn stakk mik svefnþorni í hefnd þess ok kvað mik aldri síðan skyldu sigr hafa ok kvað mik giptaz skulu; en ek strengda þess heit þar í mót at giptaz engum þeim er hræðaz kynni[8]). — Sigurðr mælti: kenn oss ráð til stórra hluta! Hón svarar: þér munuð betr kunna, en með þǫkkum *vil ek*[9]) kenna yðr, ef þat[10]) er nokkut, er vér kunnum, þat er yðr mætti líka, í rúnum eða ǫðrum hlutum[10a]), er liggja til hvers hlutar, ok drekkum bæði saman, ok gefi goðin okkr góðan dag, at þér verði nyt ok frægð at mínum vitrleik ok þú munir eptir, þat er vit rœðum. Brynhildr fyldi eitt ker ok fœrði Sigurði, ok mælti:

(Sigrdr. 5) Bjór fœrik þér,
brynþinga valdr[11])!
magni blandinn
ok megintíri[12]);
fullr es ljóða[13])
ok líknstafa,
góðra galdra
ok gamanrúna[14]).

(Sigrdr. 6) Sigrúnar skalt kunna,
ef vill sigr hafa[14a])
ok rísta[15]) á hjalti hjǫrs;
á vettrimum[16])

---

7) Agn. eða Auda br. C, *u. Ausg.* (*diese mit* ð). — *Daß* Auðu (Öðu?) bróðir *die richtigere Form*, eða *entbehrlich sei*, *zeigte B'. aus* Sigrdr. *Prosa zwischen Str.* 4 *u.* 5 (*H. G.*) *u.* Helr. Brynh. *Str.* 8. *An letzterer Stelle hat freilich nur* R Auþo, *dagegen* F Audar *u.* S Auda (*vgl. die Str. in* Ngþ. IX.). — 8) kunni C., kynni *B. nach L. E.* — 9) vil ek *ist ergänzt von* Fas. *u. B.* — 10) *So* M. O., *vgl.* „*vielleicht hat* C. *eher* þat“ *Bt.* — þess Fas., *B.* — 10a) *So* (lutum, *Z.* 9 lutar) C. *nach* M. O., *nach B.* „*vielleicht* listum“. — 11) *So* (valldr) C. *u. Ettm., auch von Gg. empfohlen* (*oder* brynþ. baldr) *gegenüber von* brynþings apaldr *in* R. — *Für diese u. alle fg. Str. gilt öftere Durchführung einer älteren, mehr poetischen Sprache* (*Verschleifung des Pron. mit der Verbalf.*, es *für* er, vill *auch für* vilt, *Streich. überflüss. Pron. u. dgl., meist im Anschlusse an H. G.'s L. Edda durchgeführt*). :R *hier stets* = R *der L. E.* — 12) meginn tíre C. — 13) ljóna C., ljóþa R *u. Ausg.* (f. er hann ljóða). — 14) *So die Ausg. nach L. E.*, gamanrẹðna C. — 14a) *So* R; — ef þú v. snotr vera C. — 15) ríst C., rísta *L. E. u. Ausg.* — 16) *So Ausg. nach L. E.* (sumar á vettr.) — ávett rúnum C. —



ok á valbǫstum[17]),
ok nefna tysvar Tý.

(Sigrdr. 9) Brimrúnar skalt gøra[18]),
ef þu vilt borgit hafa
á sundi seglmǫrum;
á stafni skal rísta
ok á stjórnarblaði,
ok leggja eld í ǫ́r;
fellrat[19]) svá brattr breki
né blár unnir[20]),
þó kømsk[21]) heill af hafi.

(Sigrdr. 11) Málrúnar skalt kunna,
ef vill, at mangi[22]) þér
heiptum gjaldi[23]) harm;
þær um vindr,
þær um vefr,
þær um setr allar saman
á því þingi,
es þjóðir[24]) skulu
í fulla dóma fara.

(Sigrdr. 7) Ǫlrúnar skalt kunna,
ef þu vill, annars kvæn[25])
vélit þik í trygð[26]), ef trúir;
á horni skal rísta[27])
ok á handar baki,
ok merkja á nagli Nauð;

---

17) *So* (-bystum) C, sumar á valb. *L. E.* — 18) *So* C., kunna *oder* rísta *Hrgb. der L. E.* (*nach* s. r. *in* R). — 19) *So B.*, fallat C., era *L. E.* — 20) né svá blár unnir *L. E.*; n. b. undir C. — 21) kømsktu *L. E. u. ältere Ausg.*, kemst C. — 22) att mage C, at magni R *nach B.* N. F.; *Ausg.* mangi *oder* manngi. — 23) *So L. E. u. Ausg.*, gjalda C. — 24) er menn sk. C., þj. *Ausg. nach L. E. Die mittleren drei Verse der Str. sind mit Ettm. vielleicht zu verwerfen.* — 25) *So geschrieben von Sm. u. H. G. nach* vill annars kvæn R, villt a (vilta Fas.) annaz kuenn (kvonn *nach* M. O.) C. — 26) *So Ausg. nach L. E.*, véli þik eigi trygð C. — 27) *So Ausg.* (*doch meist* þær rista) *nach L. E.*, þat r. C. —

full[28]) skal signa
ok við fári[29]) sjá
ok verpa lauk í lǫg[30]);
þá ek þat veit,
at þér verðr aldri
meinblandinn mjǫðr.

(Sigrdr. 8) Bjargrúnar skalt nema,
ef þú vill borgit fá
ok leysa kind frá konu;
á lófa skal rísta[31])
ok um liðu spenna
ok biðja dísir duga.

(Sigrdr. 10) Limrúnar skalt kunna,
ef þú vill læknir vesa
ok kunna sǫr at sjá;
á berki skal rísta
ok á barri[32]) viðar
es[33]) lúti austr limar.

(Sigrdr. 12) Hugrúnar skalt nema[34]),
ef þú vill hverjum vesa
geðhorskari[35]) guma;
(Sigdr. 13) þær of réð,
þær of reist,
þær of hugði Hroptr[36]).

28) *So Ausg. nach L. E.*, aul C. *ohne Bez. neuer Str.;* skal R, skaltu C. — 29) *So L. E. u. Ausg., auch* C. fare. — 30) lauki í l. R. *Die drei Schlußverse fehlen dort; über die Ansichten der Hrgb. vgl. H. G.* — 31) *Die Var. der L. E. bei H. G.* — 32) baðmi *L. E.* — 33) *Für* es *bietet* þeim er *L. E., doch folgen Be. u. Gg. der* Völs. (þess er). — *Für* lúti *bietet L. E.* lúta. — 34) *Für* nema *hat hier u. in Str.* 8, 1 *die L. E.* kunna. — 35) *So* (-hosk.) C., geðsvinnari *L. E.* — 36) *Die L. E. bietet als Schluß der Str. noch:* af þeim legi, er lekit hafði || ór hausi Heiddraupnis, ok ór horni Hoddrofnis. — *Dann folgt die in* Vǫls. *ganz fehlende Str.* 14 Á bjargi stóð með Brímis eggjar, hafði sér á höfði hjálm; þá mælti Míms höfuð fróðlikt it fyrsta orð, ok sagði sanna stafi. — *Diese ist aus verschliedenen Gründen verdächtig.* — *Zwischen Str.* 12 *u.* 13 *nehmen einige Hrgb., so auch H. G., eine Lücke an.* —



(Sigrdr. 15) Á skildi vǫru[37]) ristnar,
þeims stendr fyr skínanda guði[38]),
*á eyra A'rvakrs*
*ok á* Alsvinns hófi[39]),
á því hveli, es stendr[40])
und reið Hrungnis *bana*[41]),
á Sleipnis tǫnnum[42])
ok á sleða fjǫtrum;

(Sigrdr. 16) á[43]) bjarnar hrammi
ok á Braga tungu,
á úlfs klóm[44])
ok á arnar nefi[45]);
á blóðgum vængjum
ok á brúar sporði,
á lausnar lófa
ok á[46]) líknar spori;

(Sigrdr. 17) á gleri ok á gulli
ok á góðu silfri[47]),
í víni ok í[48]) virtri
ok á vǫlu sessi[49]);

37) kvað *L. E.* — 38) goði *L. E.* — *Die fg. kursiv gesetzten Worte fehlen in* C *und sind nach* R *ergänzt.* — 39) *So die Ausg. nach L. E.*, Alsvins höfði C. — 40) á þvi hv. er snýsk *lautet der Vers in der L. E.* — 41) undir reið Raugnis C., u. r. Rungnis (= Hrungnis *nach Ba.*) R; und [reið] Hrungnis bana *H. G. nach F. J.* — 42) *So die Ausg. nach L. E.*, taumum (*richtig?*) C. — 43) *Der Strophenanfang ist weder in* C *noch* R *markiert, vgl. auch H. G. zu Str.* 15—17. — 44) klóum *H. G. nach F. J.* — 45) *So Hrgb. nach* R, nefju C. — 46) á *fehlt in* C. — 47) *Für diesen Vers bietet die L. E.* ok á gumna heillum, *vgl.* [49]). — 48) *Das* í *fehlt hier in* R, *doch stellen es die Ausg. vielfach her.* — 49) *So* C., ok vilisessi R, *vgl.* N. F. 417. — *Nach diesem Verse bietet* C *noch* í guma holdi (hollde), *was nach dem Stabreim zu schließen wohl als Var. zu dem zweiten Verse der Str. gehört, wo* á gumna heillum (R) *oder* höllum (*Be.*) *von B. als die ursprünglich richtige Les. bezeichnet wird. Jedenfalls stehen die Worte* í g. holdi *in* C *nicht an richtiger Stelle und sind daher hier aus dem Texte verwiesen.* — *Sie könnten auch Var. zu V.* 5 *sein.* —

á Gungnis[50]) oddi
ok á gýgjar[51]) brjósti,
á nornar nagli
ok á nefi uglu.

(Sigrdr. 18) Allar vǫ́ru af skafnar,
þær's á vǫ́ru ristnar,
ok hrœrðar[52]) við inn helga mjǫð
ok sendar á víða vegu[53]);
þær' u[54]) með ǫlfum,
þær'u með ǫ́sum[55]),
sumar með vísum vǫnum[56]),
sumar hafa menskir menn.

(Sigrdr. 19) Þat eru bókrúnar
ok bjargrúnar
ok allar ǫlrúnar[57])
ok mærar meginrúnar[58]),
hveims[59]) kná óviltar[60])
ok óspiltar
sér at heillum[61]) hafa. —
Njóttu[62]), ef namt,
unz rjúfask[63]) regin!

(Sigrdr. 20) Nú skalt[64]) kjósa,

50) *So Ausg. nach L. E.*, ok Gaupnis oddi C. — 51) Grana R, *was B'. richtiger nennt* (*vgl. jedoch* nornar *Z.* 7). — 52) *So B.*, hreðar C, hverfðar R. — 53) *So* C., vega R. — 54) *So* (ro) R, eru C. — 55) *Das Verspaar lautet in der L. E.:* þær 'ru með ásum, þær 'ru með álfum. — *V.* 6 sumar m. á. C. — 56) *So* R, ok með vísum vanum C. — *Die letzte Zeile wird ebenso wie die vierte von Ettm. getilgt, um eine Str. in* ljóða h. *zu erhalten.* — *Vgl. auch H. G.* — 57) *So Ausg. nach L. F.*, alrunar C. — 58) ok merar ok meg. C., ok metar (mætar *Ausg.*) meg. R, *vgl.* N. F. 417. — 59) *So H. G. nach L. E.*; hverjum er C. — 60) *So* C *u.* R, *darauf folgt in* C of viltar, *in* R ok óspiltar, *welche Worte wohl als besonderer Vers aufzufassen sind. Über Ettm.'s Versuche die Str. zu korrigieren vgl. H. G.* — *Auch das schließende Verspaar der Str. ist metrisch auffällig* (a : a = b : b) *und steht wohl eigentlich außerhalb derselben.* — 61) *So* R, C heilum. — 62) *So* C, njóttu R. — 63) *So* R, rjúfa C. — 64) sk. *steht in* C *zweimal.* —



alls þér's kostr of boðinn,
hvassa vápna[65]) hlynr!
sǫgn[66]) eða þǫgn
haf þú þér sjálfr of hug[67])!
ǫll eru mǫ́l[68]) of metin. —

Sigurðr svarar[69]):

(Sigrdr. 21) Munkak[70]) flœja[71]),
þótt mik feigan vitir,
emkak með[72]) bleyði borinn;
ástrǫ́ð þín
vilk ǫll of hafa,
svá lengi sem lifik[73])! —

XXI[1]). Sigurðr mælti: aldri finnz þér vitrari kona í verǫldu, ok kenn[2]) enn fleiri spekirað! Hón svarar: heimilt er þat at gera at yðrum vilja ok gefa heilræði fyrir yðra eptirleitan ok vitrleik. Þá mælti hón: ver vel við frændr þína ok hefn lítt mótgerða við þá, ok ber við þol, ok tekr þú þar við langæligt lof. Sé við illum hlutum, bæði við meyjar ást ok manns konu, þar stendr opt illt af. Verð lítt mishugi við óvitra menn á fjǫlmennum mótum; þeir mæla opt verra, en þeir viti, ok ertu þegar bleyðimaðr kallaðr ok ætlaðr[3]), at þú sér[4]) sǫnnu sagðr; drep hann annars dags ok gjalt honum svá heiptyrði. Ef þú ferr þann veg, er vándar vættir byggja, ver varr um þik; tak þér ekki herbergi nær gǫtu, þótt þik nátti, því at opt búa þar illar vættir, þær[5]) menn villa. Lát eigi tæla þik fagrar konur, þótt þú sjáir at veizlum, svá at þat standi þér fyrir svefni eða þú fáir af því hugarekka, teyg þær ekki at þér með

65) vópna C. — 66) *So* R, saungh C. — 67) í hug R. — 68) mein R. — 69) *Diese Worte fehlen* R. — 70) *So H. G. nach* R (munka ek), munkað ek C. — 71) *So die meisten Ausg. mit* R — fleyja C. — 72) *So nach* R (emka ek), emkat ek C.; með *ist nach der L. E. ergänzt. Der Schluß lautet dort:* ástr. þ. ek vil öll hafa, sv. l. s. e. l. — „*V.* 2 *läge* vita *nahe*". (1. *Ausg.*) — *Vgl. jetzt* vitak *F. J.* (*H. G.*) *und Edz. Übers.* — 73) *So H. G. nach F. J.*, ek lifi R *u.* C.

**XXI.** 1) *Überschr. in* C: Speki Rad Brynhillda(r). — 2) *Nach* kenn *vermutet B'. ein ausgefallenes* mér *oder* oss. — 3) *So Bj. u. B.* — ætlar C. *u.* Fas., ætlat *bringt B' in Vorschlag.* — 4) sert C., *vgl. C.* IX, [7]). — 5) „*Ursprünglich wohl* þær er" (*B'.*). —

kossum eða annarri blíðu, ok ef þú heyrir heimslig orð drukkinna manna, deil eigi við þá er víndruknir eru ok tapa viti sínu, slíkir hlutir verða mǫrgum at miklum móðtrega[6]) eða bana. Berz heldr við óvini þína, en þú sér brendr[7]), ok sver eigi rangan eið, því at grimm[8]) hefnd fylgir griðrofi. Ger rœkiliga við dauða menn, sóttdauða eða sædauða eða vápndauða, búðu vandliga um lík þeira; ok *trú*[9]) ekki þeim er þú hefir feldan fyrir fǫður eða bróður eða annan náfrænda, þótt ungr sé:

(*vgl.* Sigrdr. 35, 6) opt es ulfr
í ungum syni!

Sé vandliga við vélráðum vina þinna, en lítt megu-vér sjá fyrir um yðart líf, en eigi skyldi mága hatr á þik koma. Sigurðr mælti: engi finnz þér vitrari maðr[10]), ok þess sver ek, at þik skal ek eiga, ok þú ert við mitt œði. Hón svarar: þik vil ek helzt eiga, þótt ek kjósa um alla menn! — ok þetta bundu þau eiðum með sér. —

XXII[1]). Nú ríðr[1a]) Sigurðr á brott; hans skjǫldr var svá markaðr: laugaðr[2]) í rauðu gulli ok skrifaðr á einn dreki; hann var døkkbrúnaðr it efra, en fagrrauðr it neðra ok þann veg var markaðr hans hjálmr ok sǫðull ok vápnrokkr; hann hafði gullbrynjuna, ok ǫll hans vápn váru gulli búin; ok því var dreki markaðr á hans vápnum ǫllum, at hverr er hann sá[3]), má vita, hverr þar ferr, af ǫllum þeim er frétt hafa, at hann drap þann mikla dreka, er Væringjar[4]) kalla Fáfni; ok fyrir því eru vápn hans ǫll gulli búin ok brún at lit, at hann er langt umfram aðra menn at kurteisi ok allri hœfersku ok náliga at ǫllum hlutum; ok þá er talðir eru allir inir stœrstu[5]) kappar ok inir ágæztu hǫfðingjar, þá mun hann jafnan fremstr talðr, ok hans nafn gengr í ǫllum[6]) tungum fyrir norðan Grikklands haf, ok svá man

6) móthtrega C. — 7) *So* C, Fas., *B.*, blauðr *Bj.* — 8) grim C. — 9) trú *wurde von* Fas. (*u. B'.*) *nach* Sigrdr. 35, 2 *ergänzt, vgl. übrigens B'.* — 10) kona *Bj. nach Papierhss.* —

**XXII.** 1) *Überschr. in* C. Frá yfirlitum Sighurdar. — *Über das ganze Cap. vgl. P. E. Müller Unters.* 67, 68. — rid C. — 2) *So B. nach* Þiðrs. S. 181 — var svá margfaldr ok laugaðr Fas. *nach* C. *Vgl.* M. O. — 3) *So Papierhss., ähnl.* Þiðrs. þá má vita hverr þar ríðr, C (Fas. *u. B., doch vgl. B'.*) at, ẹr hann er sénn, má vita *u. w.* — 4) Væringar C., Væringjar *B. nach* Þiðrs. — 5) *Vgl. B'.* — 6) allum C. —



vera, meðan verǫldin stendr. Hár hans var brúnt at lit ok fagrt[6a]) at líta ok fór í stórlokka, skeggit var þykt ok skamt ok með sama lit; hánefjaðr var hann ok hafði breitt andlit ok stórbeinótt; augu hans váru svá snǫr, at fár einn þorði at líta undir hans brýnn[7]); herðar hans váru svá miklar, sem tveir menn væri á at sjá. Hans líkami var skapaðr allr við sik á hæð ok digrleik þann[7a]) veg, sem bezt má sama, ok er þat mark um hans hæð, at þá er hann gyrði sik sverðinu Gram — en þat var sjau spanna hátt — ok er hann óð rugakrinn fullvaxinn, þá tók niðr dǫggskórinn á sverðinu akrinn uppstandanda; ok hans afl er meira en vǫxtr. Vel kann[8]) hann sverði at beita ok spjóti at skjóta ok skapti at verpa ok skildi at halda, boga at spenna eða hesti[9]) at ríða, ok margs konar kurteisi nam hann í œsku. Hann var vitr maðr, svá at hann vissi fyrir óorðna hluti, hann skildi fugls rǫdd, ok af slíkum hlutum kómu honum fáir hlutir á óvart. Hann var langtalaðr ok málsnjallr, svá at ekki tók hann þat erendi at mæla, at hann mundi fyrr hætta, en svá sýniz ǫllum, sem enga leið muni eiga at vera nema svá, sem hann segir; ok þat er hans skemtan, at veita lið sínum mǫnnum ok reyna sjálfan sik í stórræðum[10]) ok taka fé af sínum óvinum ok gefa sínum vinum[11]). Eigi skorti hann hug, ok aldri varð hann hræddr.

XXIII[1]). Sigurðr ríðr nú þar til, er hann kemr at einum miklum bœ; þar réð fyrir einn mikill hǫfðingi, sá er Heimir hét; hann átti systur Brynhildar, *er*[2]) Bekkhildr hét, því at hón hafði heima verit ok numit hannyrði[3]), en Brynhildr fór með hjálm ok brynju ok gekk at[4]) vígum, var hón því kǫlluð Brynhildr. Heimir ok Bekkhildr áttu einn son, er Alsviðr hét, manna kurteisastr. Þar léku menn úti, ok er þeir sjá reið mannsins at bœnum, hætta þeir leiknum ok undraz manninn, því at þeir hǫfðu engan slíkan sét, gengu í mót honum ok fǫgnuðu honum vel. Alsviðr býðr honum með

6a) fagr C. — 7) *So nach Bt.*, brún C. — 7a) *So* Þiðrs. (*Ba.*), ok þ. v. C. — 8) *So* C, Fas., *B.* — kunni *Bj. nach Paphss.* — 9) *So* Fas. *u. B.*, hest C. — 10) stórẹðum C. — 11) ok g. s. v. *fehlt in allen Paphss.* —

**XXIII.** 1) *Überschr. in* C: Sigurdr kom til Heimis. — 2) er *wurde von* Fas. *u. B. ergänzt.* — 3) *So B.*, hanurde C., hannurði Fas. — 4) *So Bj.*, M. O., *vgl. auch B'.*; á C., *B.* —

